Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

7. tölublað Þriðjudagur 13. febrúar 1979 8. árgangur verð kr. 100.-



## Starf SHA: Stóraðgerðir í mars

SJÁ BAKSÍÐU



Sjá viðtal við Soffíu Sigurðardóttur ritara miðnefndar SHA.

# Þjófnaður heildsalanna

Það hefur löngum verið haft fyrir satt að heildsalar hefðu fé af landsmönnum með of háu verði og vanskilum á umboðslaunum.

Heildsalar hafa einnig sem kunnugt er verið höfuðandstæðingur launþega skv. þjóðfélagsgreiningu Alþýðubandalagsins.

Nú hafa verið lagðar fram sannanir fyrir stórfelldum þjófnaði heildsala og innflytjenda.

Ekki bólar hins vegar á aðgerðum af hálfu ríkisvaldsins. Alþýðubandalags-viðskiptaráðherrann, helsti "óvinur" kaupmanna, virðist ætla að lögleiða þjófnaðinn.

Sem kunnugt er kom það fram í könnun verðlagsstjóra að verð vara til Íslands er um 14 - 19% hærra en til annara landa. Auk þess áætlar hann að um 30% umboðslauna komi ekki til landsins og þannig sé sú upphæð einnig svikin undan skatti.

Verðlagsstjóri áætlar að hér sé um að ræða upphæðir sem nemi miljónatugum. Þannig er áætlað að falin umboðslaun nemi 2.3 milljörðum á árinu 1978 og að mismunur vöruverðsins nemi 21.5 milljarði. Samtals er því hér um að ræða 24 milljarða króna, sem allt er óþarfa eyðsla, svikið undan skatti sumt, svikið undan gjaldeyrisskilalögum, en allt greitt af neytendum. Þess ber að gæta að ekki var reiknað með ýmsum vörutegundum, svo sem bensíni, olíu, bifreiðum

framhald á síðu 2

# Ríkið sparar á kostnað launþega

Það fer víst ekki fram hjá neinum að þessa dagana er að fara af stað sparnaðarherferð ríkisstjórnarinnar.

Allur er sparnaðurinn fólginn í því að skerða kjör þeirra sem fá laun hjá ríkinu og að skerða félagslega þjónustu.

Ríkisstjórninni dettur ekki í hug að spara þar sem eyðslan er mest og ónauðsynlegust heldur kveður við gamla tóninn að skerða kjörin.

Nýlega voru Sóknarkonur sviptar sem nemur 15.þús. kr. á mánuði. Þetta var liður í sparnaði ríkisins. Þar er ráðist á kjör fólks með um 160 þús.kr. mánaðarlaun. Það versta við þetta mál var að forysta Sóknar, með Aðalheiði Bjarnfreðsdóttur í broddi fylkingar, greip inn í baráttu kvennanna og "samdi" um kjaraskerðinguna eins og sagt var frá í síðasta blaði.

En þetta er aðeins byrjunin. Næsta skrefið er að gera "lagfæringar" á vaktakerfi starfsfólks spítala. Þegar er byrjað að breyta vöktum sjúkraliða og hugmyndir eru um að lengja næturvaktir hjúkrunarfræðinga (þá eru fæstir á vakt).

Þessar breytingar hafa þær afleiðingar að kaup lækkar, vinnuálag eykst og þjónusta við sjúklinga minnkar.

framhald á síðu 2



Ríkisstjórnin sparar sér krónurnar á kostnað launafólks og heldur verndarhendi yfir gróðafyrirtækjum atvinnurekendanna.

## Samstaða 8. mars

SJÁ BAKSÍÐU



# Kamputsea Stjórnarherinn vinnur sigra

Víetnamski innrásarherinn mætir sífellt öflugri andspyrnu í Kamputsea. Kamputseönsk alþýða tekur þátt í stríðinu og styður her stjórnar Pol Pots.

Víetnamar gerðu árás á borgina Takeo í samnefndu héraði sem hafði verið frelsað af byltingarhernum. Árásinni var mætt af hörku og víetnamska herliðið flýði. Margir létust og særðust og hergögn féllu í hendur byltingarhernum.

Fólkið tekur þátt í bardögum með byltingarhernum og víetnamski innrásarherinn á í vaxandi vandræðum.

Samkvæmt útvarpsfréttum stjórnar Pol Pots um síðustu mánaðarmót hefur byltingarherinn náð á sitt vald miklum hluta suðvestur- og norðvestur hluta landsins.



Víetnamskur brynvagn sem byltingarhermenn Kampuchea eyðilögðu í mars sl. Brynvagninum óku tveir rússar.

Flestar meiriháttar borgir á þessu svæði hafa verið frelsaðar en aðrar, sem enn eru undir yfirráðum víetnama, eru umkringdar af byltingarhernum. Meðal þeirra er hafnarborgin Kompong Som. Einnig hefur byltingarherinn umkringt borgir í Austur-Kamputsea, m.a. Stung Treng og Kratie (sjá kort). Byltingarherinn

framhald á síðu 3

## Meðhöndlun pólitískra fanga í Ísrael:

### Pyntingar eru viðurkennd aðferð

SJÁ BAKSÍÐU



LEIÐARI

# Olía á verðbólgubálið

Nú undanfarið hefur ríkisstjórnin hamrað á því, að framundan sé gífurleg hækkun á olíuvörum. Ekki er vitað hversu mikil hækkunin verður, þegar þetta er skrifað, en allt að 30% hækkun hefur verið nefnd í þessu sambandi.

Það gefur auga leið, að ef ríkisstjórnin ætlar sér að hleypa slíkri verðhækkanaskriðu af stað, eru allir draumar um minnkandi verðbólgu loftkastalar einir. Á sama tíma heldur ríkisstjórnin áfram að krefja verkafólk um að það láti af kröfum sínum um launahækkanir, sem það á þó rétt á samkvæmt samningum. Ennfremur hefur ríkisstjórnin gripið til víðtækra aðgerða í ríkisrekstrinum sem miða að því að skera niður útgjöld ríkissjóðs.

Markmið þessara aðgerða virðist vera að vega enn frekar að launþegum bæði hvað varðar launakjör og atvinnutækifæri. Það má því vera augljóst að markmið ríkisstjórnarinnar er að velta efnahagskreppunni yfir á herðar verkalýðs og vinnandi alþýðu. Þessu hlýtur verkalýðshreyfingin að mótmæla og lýsa yfir að samstarf við ríkisstjórnina á þessum grundvelli komi ekki til greina. Því verði að taka upp víðtæka baráttu gegn ríkisstjórninni og slá þannig skjaldborg um hagsmuni verkalýðsins og koma í veg fyrir að vandinn verði leystur á kostnað hans.

Samningana í gildi strax.

# Þjófnaður innflytjenda

Í nýrri skýrslu frá verðlagsstjóra til viðskiptaráðherra um innflutningsverslun kemur fram að mikil óhagkvæmni er í innkaupum. Þessi óhagkvæmni nemur 14-19% hærra innkaupsverði hjá innflutningsversluninni, en vera þyrfti.

Þessar niðurstöður benda til að annað hvort kaupi íslenskir innflytjendur vörurnar mun hærra verði en annars staðar þekkist, eða þeir hreinlega stela 14 - 19% undan, sem er öllu líklegri skýring.

Íslenskum innflytjendum verður ekki legið á hálsi fyrir að vera svona miklu lélegri verslunarmenn en kollegar þeirra meðal annara þjóða. Öllu líklegra er að þarna hafi þeir fundið auðvelda leið til að auka gróða sinn um að meðaltali 10 milljónir króna á hvern einstakan innflytjenda. Þessum aukagróða geta innflytjendur stungið í eigin vasa án nokkurra afskipta opinberra aðila, sem ekki virðast ætla að grípa til neinna aðgerða til að stöðva þennan augljósa þjófnað.

**Ef við berum þennan aukagróða saman við laun verkamanna, kemur í ljós að greiða mætti 7 - 10 þúsund verkamönnum árslaun sín, einvörðungu með því sem innflytjendur stinga í eigin vasa.**

***Hér er því um að ræða stórkostlegt fjármálahneyksli og stóran hluta af þeim efnahagsvanda sem stöðugt er velt út í verðlagið.***

# Ríkið sparar á kostnað launþega

framhald af forsíðu

## Skólar fá einnig sinn skammt

Spara á 308 milljónir í fræðslukerfinu. Þær á ekki að spara með því að draga úr þenslu menntamálaráðuneytis sem gerir skólafólki lífið leitt. Nei, heldur á að fjölga meðaltalsnemendafjölda í bekk, heyrst hefur úr 25 nemendum í 28.

Öruggt er að enginn nýr kennari verður ráðinn við grunnskóla í haust. Miklu meiri líkur benda til þess, að kennurum verði fækkað um fram þá sem láta af störfum af öðrum orsökum.

Samkvæmt samtali við formann fræðsluráðs í Reykjavík er þetta til komið þannig að Alþingi neitaði að láta meira fé til kennslumála og krafðist þess að borgin fækkaði á þennan hátt kennurum.

Sparnaðurinn í skólakerfinu á þannig einungis að vera í formi fækkunar kennara. Því til viðbótar að kennurum fækkar, eykst álag á hina sem fá stærri bekki en það þýðir meira vinnuálag.

Þetta er heldur ekki einkamál kennara því með þessu verður kennslan lakari og árangur skólastarfsins lélegri. Þetta varðar því ekki síður nemendur og foreldra þeirra.

Svipuð áform eru á prjónunum í Háskólanum þar sem dreift hefur verið plaggi með tillögum um hvar skera eigi niður kennslu.

## Er þetta nauðsynlegt?

Ríkisstjórnin heldur því fram að þetta sé nauðsynlegur liður í baráttunni gegn verðbólgunni . Þetta hefur heyrst áður. Launþegar hafa áður verið látnir blæða vegna "sparnaðar í þágu minnkandi verðbólgu". Aldrei hefur hinsvegar verðbólgan minnkað.

En látum reynsluna skera endanlega úr um það hvort ríkisstjórninni tekst að koma verðbólgunni niður í 15-20% án atvinnuleysis eins og hún lofar. Stéttabaráttan efast stórlega. Þjóðfélagið siglir hraðbyri inn í kreppu og engar "sparnaðarhugmyndir" eða annarskonar ráðstafanir ríkisstjórnarinnar geta komið í veg fyrir að kreppan nálgist. Þær geta aðeins lítillega frestað áfallinu með því að velta sífellt þyngri byrðum á herðar launþeganna.

Það er ráðist á kjörin og hafist handa á þeim lægstlaunuðu. Á meðan verið er að þessu sitja háir herrar í æðstu stöðum ríkisvaldsins og eyða almannafé í allskyns óþarfa.

Framkvæmdastofnun ríkisins eyðir hundruðum milljóna í byggingu yfir starfsemi sína meðan laun Sóknarkvenna eru lækkuð.

Seðlabankinn áætlar milljóna byggingu meðan laun hinna lægstu eru skert.

Haldið er áfram að byggja þjóðarbókhlöðu fyrir offjár en launin eru skert.

Og ekki virðist skorta fé þegar ráðnir eru aðstoðarráðherrar, blaðafulltrúi og annað starfsfólk fyrir ríkisstjórnina.

Þannig er eyðslan allsráðandi í ríkiskerfinu. Sparnaðurinn er aðeins lítið brot af allri eyðslunni.

## Berjumst gegn þessu.

Dæmið af baráttu Sóknarkvennanna sýnir okkur tvennt. Annars vegar að samstaða launþega er eina aflið sem færir sigur, hún ein tryggir kjörin. Hins vegar sýnir hún okkur að við verðum að vera á varðbergi gagnvart svikum ýmissa verkalýðsforingja sem taka hagsmuni flokka sinna og auðherranna fram yfir hagsmuni launþeganna.

Baráttan verður að fara fram á sérhverjum vinnustað og skipuleggjast þar. Ef verkalýðsforingjarnir reyna að halda aftur af baráttunni þarf að skipuleggja enn frekar starf á vinnustöðunum og berjast þannig gegn svikulum verkalýðsforingjum.

Þessar "sparnaðarráðstafanir" ríkisstjórnarinnar eru algerlega ónauðsynlegar. Ef eitthvað þarf að spara þá er það þar sem eyðslan er í raun og veru; í nýbyggingum ríkisstofnana, dýrri olíudreifingu, stuldi heildsala og svo mætti lengi telja.

# Þjófnaður heildsalanna

framhald af forsíðu

og skipum. En þar hljóta upphæðirnar að vera meiri vegna dýrari vara.

Vöruskiptajöfnuður við útlönd verður óhagstæður vegna þessa.

Þannig er ekki bara um stuld úr vasa almennings að ræða í formi hækkaðs vöruverðs heldur og stuld á opinberum gjöldum til ríkisins.

## Hvað segja heildsalar?

Fyrstu viðbrögð þeirra voru að segja að niðurstöður könnunarinnar væru fals og lygi, m.a. úr blaðamönnum, eins og forystumenn kaupmanna orðuðu það í Vísi þegar ljóstrað var upp um niðurstöðurnar.

Söm voru viðbrögð þeirra í fyrra þegar verðlagsstjóri birti könnun sína.

Þegar innflytjendur hafa orðið að viðurkenna þetta hafa þeir kennt álagningarkerfinu um. Ef komið verði á frjálsri álagningu þá lagist málin sjálfkrafa og vöruverðið lækki.

Þeir gleyma því að samkvæm núverandi álagningarkerfi mega þeir hafa verðið eins lágt og þeir vilja. Ekkert bannar þeim það. Það sem heildsalar eru að biðja um er lagavernd yfir þjófnaðinn. Þeir vilja frelsi til að leggja eins mikið á vöruna og þeim sýnist, hafa verðið eins hátt og þeim sýnist.

Það er fávísi að láta sér detta það í hug að frjáls álagning muni lækka verðið.

## Játa þjófnað

Heildsalar hafa í raun og veru játað á sig þjófnað. Þeir bera því við að þeir "séu neyddir" til þess til að kjör þeirra nægi þeim.

Daníel Daníelsson læknir líkir þessu í stórgóðri grein í Þjóðviljanum við launþega sem taki úr verslunum þær vörur sem þá vanhagi um og beri því við að launin dugi ekki til framfærslu.

Hvað yrði gert við slíka menn? Laganna verðir tækju þá úr umferð og dómstólarnir sæju um að kaupmaðurinn fengi sitt til baka.

Hvað er gert við heildsala sem stela milljónum af neytendum? Ekkert. Laganna verðir þegja, dómstólarnir þegja, meira að segja ráðherrann, óvinur heildsalanna, hann þegir.

Og nú er verið að finna leiðir til að lögvernda þjófnaðinn.

## Þjóðnýtingu innflutningsverslunar.

Í ljósi þessara staðreynda hafa einkaaðilar svipt sig rétti til að fá að stunda innflutningsverslun.

Þess vegna ætti að þjóðnýta innflutningsverslunina og svipta þessa herra þar með möguleikanum til að stela milljónum af launþegum.

Þjóðnýtt innflutningsverslun undir eftirliti vinnandi fólks er eina lausnin. Hún mundi koma í veg fyrir að einkaaðilar græði á þjófnaði við innflutningsverslun og hún mundi leiða til lækkunar vöruverðs.

**HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L**

Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar: sími 27810 og pósthólf 1357 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð, Lindargötu 15, opið mánud. - föstud. kl. 16:00 - 18:30.

HORNAFJÖRÐUR
Margrét Einarsdóttir
Silfurbraut 2

HELLISSANDUR
Sigfús Almarsson
Hellisbraut 10.

AKUREYRI
Jón Atli Játvarðsson
Skarðshlíð 30.

HAFNARFJÖRÐUR
Fjóla Rögnvaldsdóttir
Reykjavíkurvegi 24.

KEFLAVÍK
Einar Jónsson
Sólvallagötu 40c.

# Jón Þorleifsson og lögmál stéttasamfélagsins

Dufþakur

Jón Þorleifsson er maður á sjötugsaldri, sem unnið hefur verkamannavinnu af ýmsu tagi um ævina. Hann er nú, bæði vegna aldurs sakir og heilsubrests, hættur að leggja stund á erfiðsvinnu. Tíman- um hefur hann aftur á móti m.a. varið til ritstarfa. Fjórar bækur hafa komið út eftir Jón síðustu fjögur árin og eru þær ólíkar að efni og formi; sýnir það eitt fjöl- hæfni hans á þessu sviði.

Fyrsta bók Jóns var Nú- tímakviksetning, en þar segir hann frá persónulegum sam- skiptum við forkólfa Alþýðu- bandalagsins og forystumenn Dagsbrúnar, en í því félagi hefur Jón verið um margra ára skeið. Jón hlífir engum í þessari bók og afhjúpar mis- kunnarlaust sviksemi þessara valdamanna í verkalýðshreyf- ingunni. Lýðræði eða hvað? er úttekt á starfsemi stjórn- málaflokkanna. Þriðja í röð- inni er svo ljóðabók, Klórað í bakkann. Flesta ljóðanna eru pólitísks eðlis og hörð gagnrýni á sjálfskipaða full- trúa verkalýðsins á þingi og í verkalýðshreyfingunni. Eð- varð Sigurðsson, formaður Dagsbrúnar, fær þar þennan dóm:

"Eðvarð, þú ert úrþvætti yfirstéttarhandbendi sannur verklýðssvikari svívirðilegt hrakmenni."

Nýjasta bók Jóns Þorleifs- sonar kom svo út skömmu fyrir áramót. Þetta er skáld- saga og hefur hún hlotið nafn- ið Grafskrift hins gleymda. Saga þessi gerist, eftir því sem næst verður komist, um miðbik síðustu aldar og tekur til meðferðar stéttaandstæð- urnar til sveita, kúgun stór- bænda á vinnuhjúum sínum, arðránið og misrétti í þjóð- skipulagi þess tíma.

Sjálf sagan er hvorki stór- brotin né flókin; Jón leggur mest upp úr orðræðum og lýsingum, þar sem hamrað er á hinni grimmdarlegu kúg- un og því svívirðilega mis- rétti, sem ríkjandi var til sveita á þeim tíma. Samúð Jóns er öll með lítilmagnan- um, sem má sín einskis í ranglátum heimi. Í bókinni kemur fram það sem raunar einkennir skrif hans: eindreg- in verkalýðssinnuð afstaða og hlífðarlaus ádeila á kúgarana og málsvara þeirra.

Það sem ef til vill mætti finna bókinni til foráttu, er sú mikla áhersla, sem hann leggur á að skýra frá því, að stéttaandstæður þjóðfélags- ins séu einmitt þessar, í stað þess að láta atburðina sjálfa útskýra meginhugsun- ina í bókinni og láta þannig lesandanum eftir að draga ályktanir. Það er eins og Jón vilji, að lesandinn sé nú alveg viss um, að það hafi komist til skila, sem höfund- urinn vildi sagt hafa. Nokkr- um sinnum rekst maður á lýsingar sem þessa:

"Lögmál lífsins er eitt, en lögmál stéttasamfélagsins annað, og sterkara oft þegar á reynir, þar sem dag hvern eru dulin dómsmorð framin af villtu valdi, samkvæmt óskráðum lögum óábyrgrar yfirstéttar, sem ætíð hefur réttinn og hreinan skjöld samkvæmt eigin mati, sem engum leyfist að bera brigður á." (Bls. 78)

Allt um það, kostirnir vega upp gallana, og skáldsaga Jóns Þorleifssonar er örugg- lega ein af þeim örfáu bókum ísl. höfunda á síðasta jóla- markaði, sem tekur til með- ferðar stéttaandstæðurnar í þjóðfélaginu, þó fremur hljótt hafi verið um útgáfu hennar. Hún fæst þó í einstökum bóka- búðum.

Vonandi fáum við sem lengst að njóta hæfileika Jóns Þor- leifssonar á sviði ritlistar- innar.

Kampútsea: Stjórnarherinn vinnur sigra.
framhald af forsíðu




hefur einnig hafið árásir á herdeildir víetnama nálægt höfuðborginni, Phnom Penh.

Þannig er ljóst að barist er í gervöllu landinu og að bylt- ingarher stjórnar Pol Pots er á góðri leið með að umkringja víetnamska herinn og skera á aðflutningsleiðir hans. Víet- namar hafa m.a. komið á loft- brú til Phnom Penh til birgða- flutninga þangað.

Kúbanir og Rússar berjast í Kamputsea.

Útvarp stjórnar Pol Pots sagði nýlega frá því að kúb- anskir og rússneskir hermenn tækju þátt í bardögum víet- namska innrásarliðsins.

- Við höfum sannanir fyrir því að kúbanskir og rússnesk- ir hermenn taka þátt í innrás- inni, sagði í útvarpinu. Meðal annars hafa fundist lík kúb- anskra og rússneskra her- manna nálægt Kompong Som í suðvesturhluta landsins.

Flóttamenn í Tælandi hafa borið með sér fréttir um að "hvítir menn" berjist í inn- rásarliðinu og tali ókunnugt tungumál.

Víetnamski herinn geldur afhroð.

Samkvæmt fréttum AP í byrjun febrúar er talið að innrásarherinn, talinn um 100.000 manns, sé að missa frumkvæði bardaganna. Þeir hafi t.d. átt í vandræðum með flutninga hergagna sinna, þar sem brýr þjóðvega voru sprengdar. Þegar her kamp- útsea fór frá höfuðborginni eyðilagði hann aðalleiðirnar út úr borginni.

Blaðið International Herald Tribune segir frá því að nær- fellt allt héraðið Taeko sé í höndum stjórnar Pol Pots.

Samkvæmt fréttum voru 100 innrásarhermenn felldir í Battambang í árás byltingar- hersins nýlega.

Meiri andstaða en búist var við.

Það kemur á óvart þeim sem trúðu sögusögnum um "hryðju- verkastjórn" Pol Pots að and- staðan gegn innrásinni er svo mikil sem raun ber vitni.

Til dæmis hefur íslenska rík- isútvarpið ekki flutt neinar fréttir af sigrum byltingar- hersins í Kamputseu.

Raunveruleikinn sýnir þó að Pol Pot stjórnin á vísan stuðn- ing kampútseanskrar alþýðu. Eða eins og segir í yfirlýsingu stjórnarinnar: "Það er sama hvaða erfiðleikar bíða og hve stórt veldur, kamútseanska þjóðin mun alltaf berjast hat- ramlega gegn innrásarhernum Kamputseanska þjóðin á langa baráttuhefð og kann allar bar- áttuaðferðir gegn óvinum sín- um".

# Þjóðernisminnihlutar í Sovétríkjunum

Barátta þjóðernisminnihluta í Sovétríkjunum hefur eflst eftir aftöku andspyrnumanns að nafni Stepan Sadikian.

Nýlega voru 60 Krímtatarar handteknir vegna mót- mælaðgerða þeirra fyrir utan flokksskrifstofurnar í Moskvu.

Krímtatarar halda því fram að í gangi sé herferð til að koma í veg fyrir að þeir fái að snúa aftur til Krímskagans sem eru upprunaleg heimkynni þeirra. Aðeins 2000 fjölskyld- ur hafa fengið leyfi til að flytja þangað. Aðrir hafa að vísu farið í leyfisleysi.

Lögreglan flutti mótmælend- urna 60 í burtu í strætisvögn- um.

Sadikian var líflátinn í lok janúar ásakaður um að bera ábyrgð á sprengjutilræði á járnbrautastöð í Moskvu árið 1977. Andspyrnumaðurinn Andrei Sakarov, fyrrum frið- arverðlaunahafi, heldur því fram að Sadikian hafi alls ekki verið í Moskvu þegar spreng- ingin varð. Hann var í Jerevan höfuðborg Armeníu.

Eftir sprenginguna var strax bent á marga "sökudólga" meðal ábyrgra. Sakarov hefur hins vegar gefið það í skyn að KGB hafi komið sprengjunni fyrir. Fjórir aðrir Armeníu- menn voru handteknir með Sadikian sem var í vinnubúðum fyrir "menn fjandsamlega rík- inu" frá 1967 - 1972.



Mohammed Abu-Ghabiyr sýnir hvernig hann var hengdur upp á einum pyntingarstað á Vesturbakk anum. Hann var afklæddur, málaður felulitum og síðan var poki settur yfir höfuð hans.

# Pyntingar eru viðurkennd aðferð

framhald af baksíðu

Nýlega kom fram í sjón- varpsþætti, að ísraelska lög- reglan jafnaði við jörðu nokk- ur hús á Vesturbakkanum. Ástæðan var sú að í húsunum bjuggu Palestínuarabar sem voru grunaðir um aðild að PLO.

Eins og fram kemur í eftir- farandi grein, sem byggð er á greininni í Sunday Times, þá virðist vera takmarkalaust sem pyntingameisturum ísra- elsku lögreglunnar dettur í hug.

Málið sem Sunday Times segir gleggst frá er mál Omars Abdel-Karims. Þegar hann var látinn laus var hann svo illa farinn að hann gat varla gengið.

Hann var handtekinn vegna gruns um að hann væri Fed- ayeen, þ.e. baráttumaður fyrir frelsi Palestínuaraba.

"Játning" slíks "afbrots" jafngildir sjálfsmorði svo að hann neitaði.

Rafstuð á kynfærin.

"Það versta sem þeir gerðu var að hleypa rafstraumi á kynfæri mín. Þegar raf- straumurinn var tekinn af fann ég nístandi sársauka um allan líkamann, í hverjum vöðva og taugarnar voru eins og lamaðar".

Í eitt skiptið kom blóð á stíg- vél eins pyntingarmeistarans eftir að þeir höfðu lamið Abdel-Karim til blóðs. Hon- um var skipað að sleikja blóð- ið af stígvélunum.

Þá sóttu þeir konu hans, Mijmi, og hófu að berja hana fyrir augliti Abdels. Hann ákvað þá að gera logna játn- ingu: Að íbúð hans væri vopna geymsla.

Þegar upp komst að það var ósatt lömdu pyntingarmeist- ararnir höfði hans við veggin svo fast að pússningin losnaði af og féll á gólfið. Hann var síðan neyddur til að leggja pússninguna sér til munns.

Eitt sinn var hann settur í tunnu fulla af ísvatni meðan einn setti klemmur á kynfæri hans.

Þetta er hluti af frásögn þessa manns. Honum var sleppt í febrúar sl. meðal annars vegna áskorana frá Rauða krossinum. Þá var hann svo illa farinn, andlega og líkamlega, að hann var fleiri vikur að jafna sig.

Nauðgað með staf.

Sagan af Rasmiah Odeh (sjá inngang) var sögð af föður hennar, Josef Odeh. Rasmiah var 21 árs er þau voru hand- tekin árið 1969. Hún var ákærð fyrir að hafa komið fyr- ir sprengju sem varð 4 manns að bana.

Aldrei tókst síonistunum að fá "játningu" eða "sannanir" þrátt fyrir grimmilegustu pyntingar. Josef Odeh sagði blaðamönnunum frá því að þeir héldu henni fastri fyrir framan hann og nauðguðu henni með stafpriki.

Pyntingar eru reglan - ekki undantekningin.

Sunday Times talaði alls við 44 palestínuaraba sem setið höfðu í ísraelskum fangelsum. Upplýsingarnar sem fengust bentu til þess að pyntingar pólitískra fanga í ísraelskum fangelsum væri regla en ekki undantekning.

Blaðamennirnir ræddu líka við lögfræðingana Felicia Langer og Lea Tsemel sem hafa sérhæft sig í vörn fyrir palestínska, pólitíska fanga. Þeir gátu einnig staðfest að pyntingar væru stundaðar á vissum stöðum í Ísrael.

Aganefn[illegible]sar málinu frá.

Stuðningsmenn síonista í Bretlandi kærðu Sunday Times fyrir aganefnd breskra blaða og vildu fá ummælin dæmd dauð og ómerk.

Aganefndin vísaði kærunni frá þann 15. október sl.

Nefndin hélt því fram að inni- hald greinanna væri það trú- verðugt að réttlætti skrif- in þótt hún tæki ekki aðra af- stöðu til sannleiksgildisins. Nefndin benti einnig á að ís- raelska sendiherranum var gefinn kostur á að svara þess- um ásökunum.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
7. tbl. 8. árg. 13. 2. 1979

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



## Starf SHA:

# Stóraðgerðir í mars

Samtök herstöðvaandstæðinga eru nú að undirbúa fjölbreytta dagskrá í tilefni af 30 ára veru Íslands í Nato. Stéttabaráttan átti af því tilefni viðtal við Soffíu Sigurðardóttur félaga í miðnefnd SHA og spurði hana um starfið í samtökunum.

- Hverjar hafa verið helstu framkvæmdir miðnefndar SHA síðan á landsráðstefnunni?

- Miðnefndin skifti strax með sér verkum og kaus fram kvæmdanefnd úr sínum hópi, sem hefur haldið fundi u. þ. b. vikulega. Sjálf aðalnefndin hittist sjaldnar en kemur nú saman hálfsmánaðarlega.

Starfið hefur mikið snúist um daglegan rekstur samtakanna. Starfshópum voru falin ýmis verkefni og hefur framkvæmdanefndin fylgst með störfum þeirra. Á fundunum er fjallað um þau mál sem í gangi eru. Af þeim má nefna útgáfu Dagfara, happdrættið, sölu á útimarkaðinum á Lækjartorgi sem hefur borið mjög góðan árangur, erindrekstur úti á landi sem er kominn nokkuð af stað, leshring sem fer að hefja göngu sína, leit að nýju húsnæði sem hefur reyndar ekki borið árangur, undirbúning 30. mars, starf hverfahópanna, ályktað um bónför Benedikts Gröndal í bandaríska sendiráðið vegna samdráttar í umsvifum Kanans, og sitthvað fleira.

- Nú stendur mikið til hjá SHA í menningarmálum dagana fyrir 30. mars. Er ekki ætlunin að styrkja samtökin sem baráttuhreyfingu samfara menningarstarfseminni?

- Ég vil byrja að greina frá þeirri dagskrá sem í bígerð er.

Að kvöldi 30. mars verða hljómleikar í Háskólabíói. Sigurður Rúnar Jónsson er að undirbúa þá og þar munu verða flutt gömul og ný baráttulög. Ætlunin er að taka þessa hljómleika upp í stúdíói á eftir og gefa þá út á plötu. Einnig munu verða flutt stutt ávörp á hljómleikunum.

Á Kjarvalsstöðum mun verða flutt fjölbreytt dagskrá í um 10 daga. Þar verður málverkasýning, ljósmyndasýning, skuggamyndasýning, kvikmyndasýning, leiksýning, upplestur úr gömlum og nýjum verkum, fjölbreytt tónlistarprógram með kammerverkum, söngsveitum, trúbadorum o. fl.

Undirbúningur aðgerða er líka á fullu víða úti á landi og meðal íslendinga erlendis, t. d. í Lundi og Kaupmannahöfn.

Um það að gera samtökin að baráttuhreyfingu vil ég segja þetta:

Mér finnst SHA þurfa að huga alvarlegar að því að koma markmiði sínu í framkvæmd, þ. e. hernum úr landi og Íslandi úr NATO. Aðgerðir eins og menningardagskrár og kröfugöngur eru áróðursaðgerðir til að styrkja okkar málstað, en þær reka ekki herinn. Við verðum því að huga að því hvernig við getum losnað við herinn.

SHA eru óháð öllum stjórnmálaflokkum og treysta á fjöldann og eigin mátt. Samt er það nú svo að meirihluti herstöðvaandstæðinga hefur lengi alið þá von í brjósti að lausn hermálsins finndist með því að Alþýðubandalagið kæmi því í höfn á Alþingi. Þessi trú hefur sýnt sig í að vera algjörlega óraunhæf. SHA verður að gera sér grein fyrir þessu og haga aðgerðum sínum í samræmi við það. Því eiga samtökin nú að fara að treysta í raun á fólkið í landinu og láta það kjósa um brottför hersins og úrsögnina úr NATO.




Stefnan er sú að aðgerðir SHA verði jafnvel fjölmennari í ár en þær voru árið 1976.

## Samstaða 8. mars

Eins og mönnum er eflaust kunnugt hefur 8. mars verið helgaður baráttu verkakvenna síðan 1910. Hér á landi hefur frekar lítið borið á þessum degi fyrr en í fyrra en þá voru haldnir hér tveir fundir.

Stóð Rauðsokkahryefingin fyrir öðrum þeirra ásamt MFÍK og kvenfélagi sósíalista en 8. mars hreyfingin fyrir hinum.

8. mars hreyfingin varð til í fyrra. Töldu félagar hennar að þörf væri á nýrri kvennahreyfingu, þar sem Rauðsokkahreyfingin gæti á engan hátt náð til kvenna og síst verkakvenna. Var Rauðsokkahreyfingin gagnrýnd fyrir m. a. að vera einangruð menntamannaklíka, kvenrembu, skipulagsleysi innan hreyfingarinnar ofl. Þessar tvær hreyfingar gátu á engan hátt starfað saman þó svo að baráttumál þeirra væru svo að segja hin sömu. Voru því haldnir tveir fundir.

Nú virðist svo sem 8. mars-hreyfingin hafi skilið nauðsyn samstöðunnar. Miklar líkur eru á því, að um einhvers konar samstarf verði að ræða fyrir 8. mars, a. m. k. um göngu helgaða dagvistunarmálum. Mögulega verður líka haldinn sameiginlegur fundur. Fjallað verður nánar um 8. mars í næstu tölublöðum og hvernig dagskrá dagsins verður.



Frá göngu Rauðsokka í aðgerðum Baráttueiningar og RVEI á 1. maí í fyrra.

## Meðhöndlun pólitískra fanga í Ísrael:

# Pyntingar eru viðurkennd aðferð




"Þeir heimtuðu að ég leggðist með dóttur minni. Ég sagðist aldrei mundi gera það. Þá börðu þeir okkur bæði. Rasmiah (dóttirin) hrópaði í sífellu: Ég veit ekkert. Þeir þvinguðu fætur hennar sundur og stungu staf inn í hana. Það blæddi fram an úr henni og úr endaþarminum. Eftir þetta missti ég meðvitund."

Svona lýsti Josef Odeh "yfirheyrslum" sem hann og dóttir hans urðu fyrir árið 1969.

Viðtalið birtist í breska blaðinu Sunday Times 19. júní í fyrra. Eitt af mörgum dæmum um meðhöndlun pólitískra fanga í lögregluríki handhafa friðarverðlauna Nóbels, Begins.

Yfir 5000 pólitískir fangar sitja nú í ísraelskum fangelsum.

"Pyntingar......virðast vera opinberlega viðurkennd og meðvituð stefna," sagði í Sunday Times.

framhald á síðu 5

Helstu miðstöðvar pyntinga eru í bæjunum Nablus, Ramallah og Hebron á herteknu svæðunum á Vesturbakkanum. Ein slík er einnig á Gasasvæðinu, í Jerúsalem og Sarafand. Fréttin í Sunday Times útilokar ekki að um fleiri staði kunni að vera að ræða. Kortið er úr Sunday Times.

## Liðsmannafundur SHA

Liðsmannafundur Samtaka herstöðvaandstæðinga verður haldinn laugardaginn 24. feb. í Félagsstofnun stúdenta og hefst hann kl. 2.

Til umræðu verða 30. mars aðgerðirnar, leshringjastarf, aðgerðir í vor s.s. Reykjavíkurganga og skoðanakönnun.

Mætið vel og stundvíslega.